# Dagsbrún.

*Mánaðarrit til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.*

I. | GIMLI, MAN. nóvember 1893. | 11.

Kœru vinir!

Eigi „Dbr“ að geta haldið áfram að koma út framvegis, verða þeir sem eiga óborgaðan þenna árg. að borga hið ALLRA FYRSTA. Blaðið á útistandandi um $150.00, sem það þarf að fá inn. Sendið borgun til G. M. Thompson, Gimli.

## BÆN.

Eftirfarandi tvö vers [þýdd] eru textinn við hið undr-fagra bænarlag eftir A. P, Berggreens Sange til Skolebrug, 7. hefti, nr. 2.

1. Þú sem stýrir hnattahvelum há !
höndu sem að enginn skilja má,
|: frá þér líf og lífsins andi svífur ! :|
stjörnu blárri brautar skaftir hring !
bending þinni snúast hnettir kring !
|: duftsins dýpsta orm frá dauða hrífur ! :|

2. Til þín nú vor hjörtu hefja sig,
heyr þá bæn er stígur fyrir þig !:
|: Lát á föðurlandi friðinn skarta ! :|
Stjórn þess láttu blessa land og bú,
breiðum skyggðu meiði af von og trú !
|: Lát í brjóstum réttlátt ríkja hjarta ! :|

*H. G. Sigurgeirsson.*

# Hugleiðingar um ritninguna.

[Framhald.

5. eru *ýkjur*. Af þeim má finna furðu-mikið í hinni helgu bók. Það er t. d. sagt, að Mathúsalem hafi lifað níuhundruð sextíu og níu ár, og Enos níuhundruð og fimm ár, að Lamek hafi verið eitt hundrað áttatíu og tveggja ára gamall, þegar hann átti fyrsta soninn. Þá er og í 2. Kron. 13. kap. talan á hermönnum Gyðinga. Átti konungrinn Abija að hafa 400 000 hermenn, en Jeróbóam 800 000 úrvalaliðs, og féllu af þeim 500 000 í einni einustu orustu. Þetta getr hver maðr séð, að ómögulega getr verið, þegar vér minnumst þess, að alt Gyðingaland er ekki stærra, en héraðið Wales á Englandi, og þó átti jafnlítið land að leggja til allan þennan fjölda 1 200 000 útvaldra hermanna. En þegar Napoleon mikli fór herferðina á móti Rússum 1812 og hafði með sér herlið svo að öllum þótti undrum gegna, þá hafði hann þó ekki meira, en 500 000, en í Kron. b. er sagt, að 500 000 hafi fallið í einni orustu.

Þá er sagt frá því I. Sam. 6, 9. „að Drottinn sló nokkra af fólkinu í Betsemes af því þeir litu inn í örk Drottins og sló meðal fólksins sjötígi menn og fimmtíu þúsund menn". Það finnst nú vera nokkuð hart að deyða fimmtíu þúsund og sjötíu menn fyrir ekki meiri sök en að líta inn í örk Drottins, en tala þeirra sem deyddir voru er einnig athugaverð. Síðan manntal fór að verða almennt, hafa menn orðið þess vísari, að sjaldan er það, að fleiri en 5. hver maðr sé fullvaxinn karlmaðr. Nú hefir Betsemes verið lítið þorp, en eftir þessu hefðu þar átt að vera 250 350 menn og mundi það ekki vera kallað lítið þorp nú á dögum. Þá er sagan um Samson, er drap þúsund manna með einum asnakjálka (Dóm. 15, 15.). Þessar og aðrar eins ýkjur geta menn víða fundið í ritningunni.

6. eru *barnslegar hugmyndir um Guð*. Í annari bók Móses 30, 31—38 segir: „Þú skalt tala til Ísraelsmanna og segja: Þetta skal vera mér heilagt smurningarviðsmjör hjá yðar eftirkomendum, þessum smyrslum má ekki ryða á nokkurs manns hörund, og enginn má gjöra nokkur smyrsli með þessum tilbúningi, þau eru heilög og þau skulu vera yður heilög. Hver sem kryddar samskonar smyrsl, eður ber þau á nokkurn útlendan mann, hann skal hafa fyrirgjört lífi sínu.

Svo segir Drottinn Móses fyrir um tilbúninginn eins og lyfsali sveini sínum. Í 34. v. stendr: „Drottinn sagði til Móses: tak þér ilmjurtir, balsam, marnögl, galbanskvoðu, af þessum ilmunum ásamt reykelsis-kvoðu, jafnt af hverju“. Fyrst er það nú nokkuð hart, að það skuli vera Drottins eigið boð, að deyða hvern þann, er býr til annað eins smyrsl og þetta eins og í 38. v., eða þann sem ryðr smyrsli þessu á útlending, eins og i 33. v.; og svo er skaparinn þarna, sem annar lyfsali og segir fyrir um tilbúninginn á lyfinu, en þótt hann sé búinn að segja fyrir, hvernig eigi að búa það til, þá má þó enginn búa það til, v. 38. segir hvern þann dauða sekan, er gjöri það. Í Móses-bókunum úir og grúir af þessum og öðrum eins barnalegum forskriftum.

7. eru *siðferðisspillandi* hugmyndir um Guð eðr hugmyndir, sem sýna það. að skaparinn er alls eigi fullkomin vera. Oss er sagt, að Guð hafi forhert hjarta Faraós, svo að hann leyfði ekki Ísraelsmönnum að fara úr Egyftalandi (2. Mósesb. 8. og 10. kap.) og síðan hegndi hann honum á óttalegan hátt fyrir það, að vilja ekki leyfa Ísraelsmönnum að fara. Hver vill nú ætla Guði þetta? eða á hann ekki að vera fyrirmynd manna í öllu því, sem er gott og elskulegt. En ef vér eigum að taka þetta gott og gilt, þá hljótum vér að játa, að siðferðishugmyndin sé á lægra stigi hjá skaparanum, en mönnunum, því engin þjóð mundi telja það rétt, að hvetja einn og æsa til að gjöra illverk og hegna honum svo fyrir það á eftir.

Þá stendr í 2. Mósesb. 20, 5.: „Þú mátt ekki tilbiðja þær (líkneskjur)......því eg em vandlætissamur Guð, sem hegni misgjörðir feðranna á börnunum í þriðja og fjórða lið, á þeim sem mig hata“. Þarna er Guð kallaðr vandlætissamr (jealous), sem aldrei þykir skarta vel á mönnum; orðið er reyndar nokkuð lagað í íslensku þýðingunni, því það ætti helst að vera: „afbrýðissamr“, en viðbótin bætir það upp. Skaparinn á að hefna þess illa, sem feðrnir drýgðu, á börnunum. Mundum vér nú telja það rétt, ef að einhver ætti sök á einum eða öðrum, að hann skyldi fara að hefna þess á börnum hans og barnabörnum? Engin þjóð myndi þola það í lögum sínum nú á dögum, slíkt væri að ala heift og hefndargirni, og þetta og annað eins eru ósæmilegar og óþolandi hugmyndir um Guð.

Þá lesum vér það í sögunni um burtförina frá Egyftalandi, að Móses biðr Faraó, eftir undirlagi Drottins, að „gefa þeim orlof að þeir megi þjóna Drottni í eyðimörkinni“. En nú var tilgangr Gyðinga ekki sá, að færa Drottni fórnir í eyðimörkinni, heldr sá, að

sleppa undan ánauðaroki Egypta, en til þess, að Faraó yrði ljúfari að láta þá fara, ráðleggr Drottinn og skipar Móses, að skrökva því að Faraó, að þeir ætli að skreppa rétt sem snöggvast út í eyðimörkina til að færa Drottni fórnir. Guð skipar þarna Móses, að fara með ósannindi. Svo bætist þar við, að seinast segir Drottinn Móses, „að hann skuli láta Gyðinga fá að láni hjá Egyftum silfrker, gullker og klæði". „Drottinn mælti við Móses:......„Seg nú í áheyrn fólksins, að hver karlmaðr fái hjá vin sínum og hver kvennmaðr hjá vinkonu sinni silfrker og gullker að láni" 2. Mós. 11. 2. Þarna segir Drottinn þeim, að stela frá vinum sínum, því tilgangr þeirra var sá, að fara burtu og koma aldrei aftr og þá náttúrlega aldrei skila þessu góða láni, sem Drottinn fyrst sagði þeim að fá, og síðan hjálpaði þeim til að ná, því í 12. kap. 36. v. stendr: „Og hafði Drottinn veitt fólkinu það lán hjá Egyptskum, að þeir léðu þeim þetta, og gjörðu þeir Egypta viðskiia þar við".

Þá er uppreistin, sem þeir gjörðu Kóra, Datan og Abíram, 4. bók Móses. 16. kap. Þeim hefir fundist þeir vera harðir og yfirgangsmiklir bræðrnir Móses og Aron og hafa viljað fá rýmkað um réttindi sín. En er samsærið varð uppvíst, skipar Drottinn þeim Móses og Aron og segir: „Takið yður burt frá þessum söfnuði og eg mun á einu augabragði afmá þá" 16. kap. 21. v. En Móses og Aron biðja Guð að reiðast ekki öllum söfnuðinum fyrir eins manns synd. En þrátt fyrir þessa beiðni gleypir jörðin fyrst þá Kóra Datan og Abíram ásamt konum þeirra sonum og ungbörnum, einnig þeim 250 höfðingjum lýðsins, sem voru þeim samdóma. En það var ekki nóg með það, Drottinn var svo reiðr, að plága einhver deyddi Gyðinga hrönnum saman, og þó að Aron brygði skjótlega við og stráði reykelsi yfir söfnuðinn, þá var þó plágan búin að deyða 14 þúsundir og 7 hundruð áðr, en Aron gat stöðvað hana með reykelsinu. Þarna eru þeir Aron og Móses látnir vera mildari, miskunnsamari og réttlátari, en Guð sjálfr.

Þá er sagan um Jósúa og Gyðinga, er þeir tóku Kanaansland. Þar lætr söguhöfundrinn Drottinn skipa Jósúa og Gyðingum, að deyða alt, sem fyrir var í landinu, karla, konur og börn; stundum drápu þeir niðr fénaðinn líka. Þetta áttu þeir að gjöra, til þess þeir gætu eignast borgir landsbúa og hin frjófsömu og auðugu lönd. Ef nú einhver biflían hinna annara þjóða hefði inni að halda aðrar eins skipanir, ef að Kóraninn eða Vedabækurnar, ef að Zend Avesta eða

rit Confuciusar skipuðu, að slátra ungbarninu saklausa á brjósti móður sinnar, að taka eiginkonuna úr faðmi sínum og grýta hana í hel, að stela frá vin sínum; ef að þær biflíur hefðu önnur eins boð inni að halda og þetta, er Samúel, innblásinn af Drottni og í Drottins orða stað, skipar Sál og segir: „far þú og drep þú svo mann sem konu, barn, sem brjóstmylking, uxa sem sauð, úlfalda sem asna", þá mundu menn með réttu geta sagt, að þetta væri sýnishorn af því, hve lágar og ófullkomnar hugmyndir þjóðir þessar höfðu um Guð. Það mætti með réttu kalla biflíur þær siðspillandi í mesta máta, en ef að þetta og annað eins getr verið siðspillandi og óhæfilegt, ef það stendr í bókum Inda eðr Persa, hvernig getr það þá verið háleitt og guðdómlegt, þótt það standi í bókum Gyðinga eðr kristinna manna.

Enn skulum vér taka eitt dæmi, söguna af Jehú. Saga sú er einhver hin versta og hroðalegasta ræningjasaga, sem hugsast getr, og öll hin voðalegustu og grimmustu verk átti Jehú að vinna að boði Drottins, sjá 2. Kon. 9. og 10. kap. Fyrst gjörist Jehú drottinssvikari og myrðir Jóram konung; lætr síðan drepa Ahasía Júdakonung; lætr síðan myrða saklausa 70 sonu Akabs konungs og eru honum send höfuð þeirra í körfu einni (2. Kon. 10. kap.). Svo lætr hann hlaða höfðunum í hrúgu fyrir utan borgarhliðið og læst ekkert vita hver hafi gjört þetta, síðan lætr hann drepa alla frændr og vini Akabs og alla hans höfðingja og kunningja og presta og lét ekki einn undan komast, þó höfðu einhversstaðar orðið eftir 42 bræðr Ahasíu, en Jóram nær þeim, „og hann slátraði þeim við brunninn, sem var hjá hirðarahúsinu 42 mönnum og lét engan af þeim undan komast. Svo læst hann ætla að fórna Baal og ginnir alla hans spámenn og þjóna og presta til musterisins, en er þeir eru þangað komnir og eiga sér einskis ills von, þá lætr hann drepa þá alla saman. En söguhöfundrinn er svo hjartanlega ánægðr með þetta alt saman, að hann segir ofr rólega og náttúrlega, „en Jehú beitti hér svikum, til þess að fyrir fara Baals þjónum".

Jehú braust til valda, sem áðr er sagt, og til þess að geta verið óhræddr í sessi, þá lét hann strádrepa niðr konungsættina, en Baals presta lét hann drepa til þess að þóknast klerkum og kennilýð Gyðinga, svo að þeir styddu hann og hjálpuðu honum, til þess að bæla niðr alla þá, sem hneigjast kynnu að hinum fyrverandi konungum. Jehú sýndi sig þannig, sem undirförulan hræsnara, svikara og morðingja. En alt fyrir það sagði Drottinn við Jehú (2. Kon. 10, 30.),

*„Sökum þess þú gjörðir alúðlega það sem rétt er fyrir mínum augum og breyttir öldungis eftir mínu sinni við Akabs hús, þá skulu synir þínir í fjórða lið sitja á Ísraels hásæti.*“.

Fyrir hin svívirðilegustu verk, fyrir drottinssvik, morð og ofríki er honum af drottni heitið æðstu verðlaunum, kórónunni. Ef þetta hefði staðið í einhverjumræningjaróman, þá hefði mátt halda þessu fram sem viðrstygð svívirðingarinnar. Og hver er nú sá er vilji ganga út frá þessu og öðru eins, sem samboðnu hinni æðstu veru? En það hljóta allir að gjöra, sem standa fast á því að ritningin sé bók innblásin af Guði.

8. Í ritningunni eru menn stundum *hvattir til þess, sem ilt er*, bæði beinlínis og óbeinlínis. Í 2. Mósesb. 22. kap. 18. v. stendr: „Þú skalt ekki láta galdrakonu lifa“. En þetta boð ritningarinnar geta menn með fullri vissu sagt, að hafi komið mönnum til þess, að hengja, brenna, drekkja og deyða á einn eðr annan hátt fleiri hundruð þúsund, ef ekki millíónir saklausra manna. Það stendr öldungis eins á með þetta boð ritningarinnar og álíka tilskipun í Vedabókunum, sem hefir valdið því að konur Hindúa hafa í margar aldir látið brenna sig lifandi á báli bænda sinna látinna. Báðar bækurnar hafa verið álitnar óskeikular, og þarna getr maðr séð hvaða bölvun röng boð og grimdarfullar skipanir geta haft á menn, þegar menn taka boð þessi úr einni eðr annari óskeikulli guðdómlega innblásinni bók.

Í 5. Mósesb. 21, 18.—21. er foreldrunum boðið að grýta til bana hin óhlýðnu börn. Það þarf ekkert próf yfir þeim að halda, það er nóg, að faðirinn komi með soninn að borgarhliðinu og segi, að hann sé óhlýðinn, þá skal strax grýta hann í hel án allrar rannsóknar, hvort faðirinn segir þetta satt eða ekki. Hvernig mundi það nú fara; ef að menn ætluðu að fara að framfylgja boði þessu nú á tímum? Mundu dómstólarnir eða gæslumenn laganna þola að slíkt viðgengist? Nei! öldungis ekki. Þó að þeir væru rétttrúaðir og þó að þeir særu það og sárt legðu við, að þeir tryðu hverjum bókstaf ritningarinnar og að hún væri öll skrifuð með Guðs fingri, þá mundu þeir hiklaust brjóta á móti bókstafnum og óhlýðnast þessu boði. Með vörunum segjast þeir trúa bókstafnum, en í verkinu neita þeir honum. Mannúðin er orðin þeim mun ríkari nú, en þá, svo að menn finna það, að þetta getr ekki verið Guðs boð.—Í 5. bók

Mós. 14, 21. stendr: „Þér skuluð ekki feta neitt sjálfdautt; þeim útlendu, sem búa meðal þín, máttu gefa það að eta, eða sel það útlendingum, því þú ert Drottni, þínum Guði, helgað fólk“. Þetta virðist nú vera hálfskrítið. Ef að hið sjálfdauða hefir átt að vera óholt Gyðingum, því þá ekki öðrum; eða kemr það heima við hina gullvægu reglu: „Það sem þú ekki vilt að aðrir gjöri þér, það skaltu heldr ekki þeim gjöra“. Í 109. sálmi Davíðs óskar „maðrinn eftir Guðs hjarta“ óvinum sínum alls hins illa, svo að segja allrar upphugsanlegrar bölvunar og ekki nægir það, að biðja þannig fyrir óvinum sínum, heldr þarf hann einnig að biðja fyrir börnum þeirra á sama hátt. Hann biðr þess, að „dagar óvina sinna verði fáir“, að „börn hans verði föðrlaus“ og „kona hans ekkja“, að „börn hans leiti sinnar nauðþurftar og snýki, að „enginn sé sá, sem hafi elsku til hans“, að „enginn aumkist yfir hans munaðarleysingja“. Á öðrum stað segir hann: „Sæll er sá, sem tekr börn þín og slær þeim við steina“. Þetta er nú „maðrinn eftir Guðs hjarta“ ! ! Hver vill nú segja, að hann hafi verið innblásinn? Ef um innblástr getr verið hér að ræða, þá hlýtr það að vera frá vondum, en ekki góðum Guði.

Í 4. bók Móses 25. kap. er leyft að hafa þræla, ekki einungis um nokkurn tíma, heldr um eilífar tíðir. „Ef þú vilt fá þér ánauðuga þræla og ambáttir, þá skuluð þér kaupa yðr þræla og ambáttir af þjóðum þeim, sem í kringum yðr búa......og börn af ætt þeirra, sem eru hjá yðr......skulu vera yðar eign......og þér megið hafa þau sem æfinlega þræla“. Í Hósea 1. kap. 2. v. segir Drottinn sjálfr Hósea, að rjúfa 6. boðorðið. Þó að þessi dæmi séu fá, sem tekin hafa verið, þá ættu þau að vera nóg til að sýna það, að eigi maðr að festa trú sína á siðferðislega góðum og fullkomnum Guði, þá mega menn ekki taka ritninguna bókstaflega. Þessi dæmi eru að eins sýnishorn og það lítið, því að nóg má fá af þesskonar í ritningunni og margt svoleiðis lagað, að það er tæplega prentandi eða lesandi.

(Framhald næst.)

---

# Athuganir við sköpunarsöguna.

(Framhald).

## X.

*Dýra-sköpun.*

Ásamt sköpun jurtanna byrjaði og önnur stærri sköpun, sköpun dýranna. Þau voru einnig mynduð með cells eða kompum, eins og plönturnar. Ætlan manna er, að dýrin hafi fyrst skapast mjög einföld, með einfaldri kompumyndan á hinu fyrsta tímabili jarðmyndunarinnar.

Á fornaldartímanum fór bygging dýranna að verða margbrotnari, því áðr en siluriska tímabilinu lýkur, hafa menn fundið steingjörfinga af meir en 10 þúsund tegundum; og greinum vér skiftingu dýraríkisins í 4 aðalflokka.

Þar sjáum vér hin geislamynduðu dýr (krossfiska) og eru það mest kórallar og Krinoidar; þar sjáum vér líndýr með mjög fögrum og margbreyttum skeljum, og eru mestir þeirra hinir miklu höfuðfætlingar (cephalopods), er stundum eru 15 fet á lengd og drottna þeir þá í sjónum. Þá eru liðdýrin og hafa fundist meir en 15 hundruð tegundir þeirra frá þeim tíma, og loks eru dýr með hryggjarliðum, er koma fram seinast á þessu tímabili, og eru það fiskarnir. Á devoniska tímabilinu þroskuðust liðdýrin svo, að þau urðu að skorkvikindum, er anda að sér lofti; en fiskarnir með hryggjarliðina margfölduðust og urðu af þeim ótal tegundir, og urðu þeir einkennilegir fyrir það tímabil. Á steinkolatímanum fengu hryggdýrin fullkomnari byggingu og urðu láðs og lagar dýr, önduðu með tálknum í vatni, en lungum á landi. En á permska tímabilinu urðu þau að verulegum skriðdýrum, er lifðu á landi og önduðu eingöngu með lungum.

Andardráttrinn er hið fyrsta starf dýrsins, er greinir það frá plöntunni, og fullkomnun eðr þroski andardráttar-færanna er aðalatriðið í þroskun dýranna. Bæði plantan og dýrið hefir kolefni fyrir fæðu, en auk þess þarf dýrið súrefni til brennslu. Hvorttveggja þarf að eta, til að vaxa, en dýrið andar, til þess að brenna fæðuna og geta hreyft sig. Tréð vex einlægt, meðan það lifir, en það hlýtr einlægt að standa kyrt. Dýrið hættir brátt að vaxa, en það breytir fæðunni í afl, það hreyfist og vinnr jafnvel hin óæðri sjódýr anda

að sér lofti, sem ávalt er blandað saman við vatnið; og hin undarlegu tálkn svo margra fiska tegunda koma í staðinn fyrir blöð plantanna. En eftir því, sem dýrin verða fullkomnari hverfa tálknin, en í staðinn koma verkfæri, sem taka á móti meiru lofti. Á meðan að blöð skóganna á kolatímanum voru að hreinsa loftið, þá voru dýrin að taka upp þessi æðri blöð—lungun—, til þess að anda loftinu að sér.

En þessi permsku lungu voru þó á þessum tímum mjög ófullkomin, og á mesozoiska tímabilinu getum vér rakið, hvernig þau þroskuðust, bæði að afli og lögun. Hinn dýrslegi eldr, sem lungnabelgirnir blésu að, brann betr og framleiddi meiri hita. Hið kalda blóð fiskanna og skriðdýranna varð volgt hjá ferfættum dýrum og fuglum. Hitinn framleiddi meira afl og betri verkfæri, til að neyta þess. Í staðinn fyrir finna eðr bæxli til að synda með, og smáfætr til þess að skríða með, komu þvínæst lengri limir til þess að ganga á, og vængir til að fljúga með. Á þessum tíma komu hin fljúgandi skriðkvikindi með fitvængjum (vængjum mynduðum sem sundfit á fugli). Á milli þessara dýrategunda hafa menn fundið sambandsliðinn þessara tegunda, með tennr og hala, sem skriðdýr; en hinn langi hali og vængirnir voru fjöðrum grónir sem á fugli. Í klettum nokkuð yngri hafa fundist leifar af fuglum, sem hafa hina löngu kjálka og tennr skriðdýranna; og áðr en tíma þessum lýkr koma verulegir fuglar. Blóðhitinn leiddi fram aflið, lyfti hinu seinfæra skriðkvikindi upp og gjörði það að vængléttum fugli, sem, að því, er dýrafræðingrinn Michelet segir, tekr morgunverð á Senegalströndinni í Afríku, en borðar miðdegisverð í Ameríku.

Með vængjunum komu og verkfæri til æðra flugs, en gegn um loftið. Taugakerfið hafði raunar einlægt verið til, fyrst á mjög lágu stigi og ófullkomið, en nú varð það margbrotnara og tók miðpunkt sinn í heilanum. Skilningarvit dýranna urðu æ fullkomnari, heyrn þeirra og sjón fuglanna varð skarpari og skarpari, það roðaði jafnvel fyrir sálargáfunum, minninu og hugsuninni. Hjá hinum æðri dýrum mesozoiska tímans fór að brydda á sálunni—væri kannske réttara að segja, að þá hafi hún þegar verið til.

Á þessum tíma kom og fram enn mikilverðari breyting, það voru hinir siðferðislegu hæfileikar, sem þá komu fram. Spendýrin komu þá og með þeim kom nánara samband milli faðernis og afkvæmis, og er það hinn fyrsti grundvöllr familíunnar. Fyrrum féll plöntufræið á jörðina, en nú kom dýrseggið og þurfti það meiri um-

öðrum. Margir fiskar og skriðkvikindi yfirgáfu egg sín og létu þau eiga sig, en sumar tegundir dýranna verja sín og ala önn fyrir eggjum sínum og afkvæmum, með meiri umhyggju, en til er hjá jurta ríkinu. Fuglarnir sátu á eggjunum og vermdu þau og gættu unganna með móðurlegri viðkvæmni og umhyggju. Spendýrið ungaði út egginu í sínum eigin líkama og fæddi ungann á brjósti sér. Af þessu spratt nýtt og sterkt band, nýtt samdráttarafl. Hjá plöntum og allflestum dýrum sást ekki annað tengjandi band, en bandið, sem tengdi saman karlkyn og kvennkyn, en hjá spendýrunum kom fram hið nánara samband milli foreldra og barna, band, er eigi að eins tengdi saman kynin, heldr ættliðina. Mesozoiski tímabilið lét blóm jurtanna ná þroska sínum, en það gjörði meira, þá lagðist og grundvöllrinn að hinu æðra dýrslega blómi—familíunni. Og er menn hugleiða, hve afleiðingaríkt þetta hið nýja band seinna varð, eftir því sem vináttan og ástin fór í vöxt, þá er varla ofmikið sagt, að segja það, að með spendýrinu hafi siðgæðið myndast.

Á hinu næsta tímabili, kainozoiska tímabilinu, voru spendýrin ríkjandi, og loks varð mynd þeirra upprétt og tíguleg, limir þeirra fullkomnuðust og fengu stöðuga fætr og listfenga fingr, en taugakerfið óx og drógst saman í hinum aðdáanlega heila og þau náðu sínu æðsta stigi þar sem *maðrinn* var.

Þannig var hún þessi sköpun dýranna. Hún varaði um ótölulegar aldir. Það voru ekki að eins einstakar tegundir, er smala mátti saman í aldingarð einn og gefa nafn á skömmum tíma, eða loka inni í örk einni. Nú eru menn þegar búnir að flokka og lýsa meira, en 300 000 núlifandi dýrategundum, og náttúrufræðingrinn Lubbock ætlar, að enn séu til jafnmargar, er eigi hafi verið flokkaðar og eigi lýst enn þá. En eigi menn að telja hinar útdauðu tegundir dýranna með, þá muni talan ná upp í 2 000 000 eða meira. Svo eru þær margar tegundirnar frá hinu lægsta lindýri upp til mannsins.

En hvernig var henni nú háttað þessari sköpun? Var það sérstök sköpun hvers einasta einstaklings? eða samanhangandi sköpun fyrir eitt einasta, margbreytilegt náttúrulögmál? Vísindamennirnir halda fram hinu síðara. Jarðfræðingarnir rekja stigmyndun hinna útdauðu dýra, dýrafræðingarnir sýna fram á, hvernig hinar núlifandi tegundir eru sí og æ að breytast, fornfræðingarnir rekja stigbreytingu fræsins eðr fóstrsins frá hinu lægsta stigi til hins æðsta. Allir eru þeir á einu máli um það, að dýrin eins og plönturnar hafi verið

sköpuð þannig, að ein tegund hafi myndast af annari fyrir reglulega náttúru framleiðslu.

Ályktun þessi staðfestist og við það, er vér athugum hvernig sköpuninni einlægt fer fram fyrir augum vorum.

Í hestfarinu í blautri götunni kemr dýrið enn fram af því ósýnilega, eins og á fornaldartímanum. Vér getum séð millíón ára sköpunarsögu hinna gömlu lindýra endrtekna í sníglinum, er hann myndast af einni einustu kompu og utan um hann hvelfist hið aðdáanlega skeljarhylki. Í fiskiklakshúsunum getum vér séð, hvernig fiskrinn smámsaman vex af hrognkompu sinni. Þessi hin langa sköpun hins silúriska tímabils er endrtekin á sumri hverju.

Vér hlógum að evólútíónistunum, er þeir í fyrstu sögðu oss, að af fiskunum hefðu orðið skriðdýr á nokkrum millíónum ára, en hver einasti froskr sýnir oss furðuverk þetta, er nú gengr fyrir sig á fáum vikum. Vér fáruðumst yfir því, hve þeir væru heimskir, er þeir sögðu oss, að fuglar væru komnir af skriðdýrum; en hver ein býfluga eða sumarfiðrildi sýnir oss, hvernig þetta hefir til gengið, og hver einn fugl er klakinn út úr fljótandi efnum í egginu, frá einni einustu kompu. Þannig er um hvert eitt spendýr, og eins um manninn, að hann gengr í gegn um öll þessi stig, frá hinu lægsta til hins æðsta, og sprettr í fyrstu frá hinni gömlu vöggu, alls-kompunni. Maðrinn er enn skapaðr—ekki að eins tveir á dag, eins og í sögunni gömlu, heldr tugir þúsunda á hverjum einasta degi. Og allar þessar myndir vaxa fram og myndast fyrir evolution, og er sköpun sú engu síðr, heldr miklu fremr guðdómleg, en hin gamla hugmynd.

Já ! hve miklu guðdómlegra er ekki þetta en í hinni gömlu frásögu ! Á myndunum frá miðaldatímanum sjáum vér sýnilegan Guð skapa fáein dýr, og svo hálfklaufalega hnoða mann einn úr leiri og mynda kvennmann af rifi einu. Hve miklu tígulegri og háleitari er nú ekki frásaga vísindanna um hinn eilífa anda lífsins, er þegjandi myndar og lagar þessar smágjörfu kompur með sinni föstu en óséðu hönd náttúru lögmálsins. Með guðdómlegri staðfestu lætr hann hvert eitt dýrið halda sinni mynd, og jafn-guðdómlega breytir hann til og lagar hverja mynd eftir lífskjörum þeim, sem dýrið á við að búa. Þannig fyllir hann aldirnar með þúsundum tegunda, og hvílist aldrei við þetta verk eitt, því er aldrei lokið, hann hættir aldrei að skapa eins og í sögunni. Í höfum öllum, í fljótum öllum, hljómar enn hið forna boð: „og vötnin úi og grúi af lifandi skepn-

um". Enn þá lætr hann jörðina framleiða fénað og lifandi skepnur og krýnir verk sitt eins og á hinum sjötta degi með sköpun mannsins.

(Framhald síðar).

---

# Hugmyndir ýmsra þjóða um uppruna heimsins.

(Framhald).

*ÚTRUNAKENNINGIN.*

Uppruni hennar, Vedabækurnar, Gnóstikar. Enn hafa menn aðrar hugmyndir um uppruna heimsins og tilveru hlutanna, og er ein þessara hugmynda kölluð: Útrunahugmynd, Emanation. Á æskuskeiði sínu hafa þjóðirnar tekið eftir framleiðsluafli náttúrunnar. Sumar þeirra hafa því byrjað þar og látið heiminn leiðast fram sem náttúrusköpun (evolution). Hafa þjóðir þær sökt huga sínum í ríki náttúrunnar. Aftr hafa aðrar þjóðir tekið gagnstæða stefnu, þær hafa snúið huganum meira að sjálfum sér, en skoðun náttúrunnar. Þær hafa fundið hjá sjálfum sér orsök og tilgang heimssköpunarinnar, heimrinn var skapaðr fyrir þær, þær hafa fundið hjá sjálfum sér hugmyndirnar um hið andlega, um hið ótakmarkaða og eilífa. Með þessum hugmyndum, sem undirlagi, hafa þær reist heimsbyggingu sína. Þær hafa byrjað efst og haldið niðr eftir, og leitt hið endanlega út af hinu óendanlega. Hinir þjóðflokkarnir byrjuðu að neðan og héldu upp eftir, þær stigu upp eftir, þær stigu upp eftir frá hinu endanlega til hins óendanlega. Aðrar byrjuðu í hinum myrka óskapnaði og fetuðu sig upp til hinnar eilífu speki. Aðrar byrjuðu á hinu myrka dýpi hinnar óendanlegu veru, og hugsuðu sér að út frá henni hefði streymt röð af verum, ein æðri en önnur, og því óæðri sem lengra dróg frá frumverunni.

Þetta sköpunarkerfi á einkum heima í austrlöndum, og kemr fyrst fyrir hjá Indum. Vedabækrnar segja þannig frá uppruna alls hins skapaða:

„Ekkert var til, hvorki vera né veruleysi; enginn heimr, ekkert loft, engin festing himins. Hvar var þá hvolfið yfir alheiminum.

Hvar var samansafn vatnanna? Hvar var hið botnlausa dýpi loftsins? Dauðinn var ekki til, ekki ódauðleikinn, né nokkuð, er gjörði takmörk dags og nætr. En „það" andaði í einverunni án þess að útþenjast, sokkið niðr í sínar eigin hugsanir. Að undanteknu þessu „það" var ekkert til. Í fyrstu var alheimrinn myrkri vafinn; vatnið var hreyfingarlaust og öllu var saman safnað og saman blandað í þessu eina „það". Veran hvíldist á brjóstum þessa tóms, og loks var alheimrinn framleiddr fyrir styrk hugsunar þess.' Í upphafi myndaðist löngunin í anda þess; og var það hið fyrsta framleiðsluafl. Þannig hafa vitrir menn brotið huga sinn og útskýrt sameining verunnar og tilveruleysisins".

Annað kvæði í Vedabókunum segir frá sköpun heims á þessa leið:

„Í upphafi var alheimr þessi að eins sála, ekkert annað var til, hvorki starfandi eða óstarfandi. Hann hugsaði: „Eg skal skapa heima" ; þannig skapaði hann hina ýmsu heima, vatnið, ljósið, hinar dauðlegu verur og vötnin. Hann hugsaði: Þetta eru sannarlega heimar; ég skal skapa vörð heimanna. Þannig tók hann og myndaði hina líkamlegu veru af vötnunum. Hann leit til veru þessarar og við það opnaðist munnrinn, sem egg eitt, frá munninum kom ræða, frá ræðuuni kom eldr. Nasirnar þöndust út; frá nösunum kom andi og frá andanum kom loftið. Augun opnuðust, frá augunum kom tillit, frá tillitinu kom sólin. Eyrun þöndust út, frá eyrunum kom heyrnin, frá heyrninni rúmið. Skinnið þandist út, af skinninu spratt hárið, af hárinu uxu jurtir og tré. Brjóstið opnaðist; frá brjóstinu kom hugrinn.

Þegar þessar guðdómlegu verur voru nú myndaðar á þenna hátt, þá féllu þær niðr í hinn mikla útsæ. Síðan komu þær til „hans" (skaparans) þjáðar hungri og þorsta, ávörpuðu hann og sögðu: „Gef oss minni líkama, er vér getum dvalið í og etið fæðu". Hann bauð þeim kú, en þær sögðu: „Það er ekki nægilegt fyrir oss". Hann sýndi þeim hest, en þær sögðu: „Ekki er það heldr nægilegt fyrir oss". Hann sýndi þeim mannsmynd, og þær hrópuðu: „Vel er þetta gjört; ó, hve þetta er dásamlegt!"

Engir hafa þó haft jafn-skírar og ákveðnar útruna-kenningar sem Gnóstíkarnir. Það má segja, að hinn gnóstiski hugsunarháttr hafi legið í loftinu á undan komu Krists; hann var ríkjandi í Litlu-Asíu, Sýrlandi og Egyftalandi; hann var framsettr í ritum heims-

spekingsins Philó. Það var tilraun mannlegrar skynsemi, til að sameina hin helstu trúarbrögð í eina aðaltrú. Þegar hin kristna trú fór að breiðast út, þá komu og í ljós hinir ýmsu skólar gnóstikanna. Voru það miklir flokkar hugsandi manna. Þeir reyndu að sameina kristnina við trúarkerfi Zóróasters, Mósesar. við Brahma- og Buddhatrú. Blandaði hin platónska heimspeki þessu öllu saman.

Þessi heimspekiskerfi byrja með hugmyndinni um Guð, sem hinn ótakmarkaða óþekta anda, er enginn gæti nálgast, djúp tilverunnar, er allir hlutir eiga að rekja upphaf sitt til. Þessir heimspekingaflokkar ætla að öll tilveran sé komin frá þessu órannsakanlega djúpi, guðdóminum, alt fyrir útruna.

Þessi útrunakenning að láta heiminn streyma út frá Guði stig af stigi, er einn mátinn að ráða fram úr hinni austrlensku ráðgátu; hvernig hin ótakmarkaði, óendanlegi Guð geti farið að skapa takmarkaðan, endanlegan heim. Hin austrlenska algyðistrú var fljót að svara þessu. Hún sagði: Hinn takmarkaði endanlegi heimr er ekki til. Hann sýnist vera til, en er ekki til. Það er ekkert til verulegt nema hið óendanlega og ótakmarkaða. Materialistar Norðrálfunnar voru heldr ekki í miklum vafa um þetta. Þeir sögðu: „Hið óendanlega og ótakmarkaða er ekki til, alt sem vér þekkjum er endanlegt og takmarkað“. En nú er því svo varið, að allr þorri manna trúir bæði, að til sé takmarkaðr, endanlegr heimr og ótakmarkaðr, eilífr höfundr heimsins; en þá kemr ráðgátan fram: hvernig getr hið takmarkaða og endanlega framleiðst af hinu ótakmarkaða og eilífa? Ein af tilraununum að svara þessu er þessi útrunakenning.

Flokkr sá, er harðast hefir fylgt fram þessari kenning og mest hefir borið á, eru gnóstikarnir í kirkjunni á annari öld eftir Krist. Þeir fengust mikið við að hugsa um upphaf allra hluta. Einn þeirra, Basilides að nafni, kenndi það, að frá hinni fyrstu orsök (hinni óendanlegu veru) hefðu runnið sjö sónar (sóni eiginlega aldr eða tímabil), er hann nefndi „skynsemi“, „orðið“, „þekking“, „speki“, „kraftr“, réttlæti“ og „friðr“. Frá þessum 7 áttu að streyma 365 himnar. Sjö englar hins lægsta himinsins áttu að hafa skapað heim þenna undir yfirstjórn Gyðingaguðsins, sem hann kallaði stjórnarann.

Annar merkr maðr af gnóstika-flokknum var Valentinus. Hann sagði, að upphaf allrar tilveru væri hið ómælilega djúp, þar sem

þögnin býr. Frá þessu djúpi streymdu þrjátíu karl- og kvenn-sónar, er hann nefnir „Hinn frumgetni“ „Spekin“, „Sannleikrinn“, „Lífið“ o. s. frv. Þessir þrjátíu sónar mynda heild tilverunnar. Hinn lægsti þessara sóna er Spekin, og reynir hún einlægt að komast aftr til hins eilífa upphafs síns, hins guðdómlega djúps. Af þessari löngun hennar sprettr önnur vera Sophia Achamot, sem fer um alheiminn og fyllir efnin lífi, og loks myndar heimssmiðinn, er skapaði þessa jörð. Í heiminum eru þrjú efni: andinn, sem kom frá Sophia Achamot, sál allra hluta, sem er hinn lífgandi lífskraftr og hinn óæðri hluti heimsins, efnið (matter). Nú lætr hann koma fram tvo nýja sóna, Krist og heilagan Anda. Af sameining þeirra við fylling tilverunnar kemr heimsfrelsarinn Jesús Kristr, er sameinar sig manninum Jesú við skírnina, til þess að endrleysa heiminn, sem fallinn var frá Guði og koma á fullri einingu milli heimsins og Guðs.

Kenningar þessar munu flestum finnast æði undarlegar og óþýðar, en fyrri á tímum kirkjufeðranna var ákaflega mikið um þær deilt og getr þetta verið sýnishorn af því, hvað hinum heilögu feðrum lá mest á brjósti. Fyrir þetta bannfærðu þeir hver annan, sendu hver annan norðr og niðr í innstu heima, reistu kannske blóðugar styrjaldir með og móti þessum sáluhjálparkenningum.

*Sköpunin.*

Mismunandi hugsanir um sköpunina. Hebreska biflían, Zend-Avesta assýrisku töflurnar o. s. frv.

Nú kemr hin þriðja skoðun á uppruna allra hluta, sú, að heimr allr sé skapaðr af skyni gæddri veru, af fyrirhuguðu ráði og yfirnáttúrlegri þekkingu. Eftir því, sem gamla Testam. skýrir frá, hafa Gyðingar hugsað sér heim allan skapaðan af einni æðstu veru, án nokkurra milliliða, en eftir kenningu Zóróasters eins og Zend-Avesta og aðrar gamlar bækr skýra frá, þá hefir hin æðsta vera skapað tvær verur aðrar, er aftr skapa heim þenna. Hvorutveggja eigna sköpunina einni veru, sömuleiðis Mahomet, en alt trúarkerfi hans er meir eða minna sniðið eftir persneskum, gyðinglegum og kristnum hugmyndum.

Nýlega hafa og fundist leirtöflur í Assyríu æfagamlar, og var þar á skrifuð sköpunarsagan, syndafallið, syndaflóðið og sagan um turnin Babel, er mjög líkist frásögum ritningarinnar, sem ekki er nein furða, þar eð það er ætlun manna, að Gyðingar í fyrstu hafi komið þar austan að úr Euphrats-dalnum, og hafa þeir þá flutt með sér sagnir þær, er þar eru fyrir.

Í haug einum á bökkum Tígrisár fann Layard þúsund brot af töflum, leifum af bókasafni Assyríukonungs. Voru þær ritaðar fleyg-

letri, og eru sumar þeirra nú í hinu brezka gripasafni. Mr. Smith, vísindamaðr mikill, fann þar sögu um sköpunina. Segja töflur þessar, að á undan sköpuninni hafi alt verið einn vatnsgeimr, þá var hvorki tré né blóm. Alt sem Guð gjörði var fagrt, Guð festi stjörnurnar á loftinu á 12 mánuðum, til að stýra árum, og tunglið til að lýsa á nóttunni, þangað til dagr rennr.

Í sömu stefnu og þessar gömlu sagnir hafa og heimspekingarnir haldið. Þýsku heimspekingarnir Descartes, Spinosa, Leibritz, Kant Schelling og Hegel t. d. Allir byrja þeir á Guði, eða hinu algilda (absolute) og reyna að brúa milli þeirrar hugmyndar og hins endanlega. Hugmyndir þeirra um sköpunina eru þær, að Guð breiði sig út á við, sem alheimrinn, en sýni sig smátt og smátt í tímanum, sem sagan. Sköpunin er auglýsing Guðs eðr opinberun.

Framhald.

*BORGAÐ hafa „DAGSBRÚN“ I. ár.*

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Jóhannes Ólafsson, | Gimli, | $1,00 | Karvel Halldórsson, | Gimli, | $1,00 |
| Jónas Jóhannesson, | „ | 1,00 | Gunnar Gíslason, | Árnes, | 1,00 |
| Sv. Thorvaldsson, | Árnes | 0,50 | Jón Melsted | „ | 1,00 |
| Sigrj. Jónasson, | Husawick | 1,00 | Sveinb. Guðmundss. | Hensel | 1,00 |
| Arni Magnússon, | Hallson, | 1,00 | Árni Þórðarson, | Wpg. | 1.00 |
| Nikulás Snædal, | Seamo, | 0,50 | Hallgrímr Holm, | Hallson, | 1,00 |
| Guðný Sigmundsd. | ” | 0,50 | Tomas Tomasson, | Mountain, | 1,00 |
| Magnús Melsted, | Garðar, | 0,50 | Helgi Stefánsson, | „ | 0.50 |
| Einar Mýrdal, | „ | 0,50 | Grímr Einarsson, | „ | 0,50 |
| Jón Bergmann, | „ | 0,50 | Niels Wiium, | Mountain, | 1,00 |
| Pétr Jónsson, | Mountain | 0,50 | Loptr Goodmanson, | „ | 0,50 |
| Arnlj. B. Olson, | „ | 1,00 | Einar Guðmundsson, | Akra, | 0,50 |



Útsölumenn blaðsins biðjum vér svo vel gera, að endursenda það af blaðinu, sem þeir hafa ekki von um að seljist.

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skrifiegt skeyti um það til G. M. Thompson

*☞G. M. Thompson, er „business manager“ og féhirðir fyrir blaðið.*

„DAGSBRÚN“ kemr út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vestrheimi; á Íslandi Kr. 2.00, greiðist fyrir fram. Send til Íslands en borguð hér $0.75.—Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

*Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.*

*Prentað hjá G. M. Thompson—Gimli*